10. fundr, þriðjudag 28. Júní, kl. 7.50—10 e. m.

*Fyrirlestr*

flutti séra N. Steingrímr Þorláksson á þessum fundi. Umtalsefni fyrirlestrsins var: *Að lifa.*

Að fyrirlestrinum enduðum hófust

*trúmálsumræður.*

Slíkar umræður hafa haldnar verið á hverju kirkjuþingi síðan 1895. Eins og áðr er frá skýrt var í stað þess umtalsefnis, er upphaflega var til tekið fyrir umræður þessar, valinn lærdómrinn um *endrfæðinguna.* Séra Jón Bjarnason leiddi mál þetta inn á þing með ræðu. Af þeim, er síðar tóku til máls um þetta efni, er sérstaklega að geta Ingibjargar Ingjaldsdóttur, yngismeyjar, sem, þótt hún eigi telji sig til vorrar kirkju, hafði fyrirfram beiðzt þess, að fá orðið á þessu kirkjuþingi í því skyni, að vitna um trú sína. Annars töluðu fáir um trúmál það, er fyrir lá, enda var tíminn til umræðna þessara nokkuð naumr.

11. fundr, miðvikudag 29. Júní, kl. 9—12 f. m.

*Skýrsla um tekjur og útgjöld kirkjufélagsins*

var lögð fram af féhirði, hr. Jóni A. Blöndal, þannig hljóðandi:

TEKJUR:

| | |
|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári | $242 71 |
| Meðtekin gjöld frá Brœðrasöfn | 3 50 |
| Fríkirkjusöfn | 6 50 |
| Pétrssöfn | 5 75 |
| Pembina söfn | 5 60 |
| Frelsissöfn | 9 08 |
| St. Páls-söfn | 6 30 |
| Lincoln-söfn | 7 00 |
| Vestrheimssöfn | 3 10 |
| Marshall-söfn | 1 75 |
| Garðar-söfn | 18 80 |
| Fjallasöfn | 3 25 |
| Þingvallasöfn | 6 00 |
| Vídalínssöfn | 10 00 |
| Selkirk-söfn | 2 77 |
| Hallson-söfn | 4 41 |
| Víkrsöfn | 9 20 |
| Þingvallanýlendu-söfn | 3 15 |
| Brœðrasöfn | 3 00 |
| Fyrsta lút. söfn. í Winnipeg | 22 50 |
| Meðteknar gjafir í missíónar-sjóð frá: | |
| sunnudagsskóla Fyrsta lút. safn. í Wpeg | 3 90 |
| Ragnhildi Jónsdóttur | 1 00 |
| Elísabet Jónsdóttur | 25 |

| | |
|---|---|
| prestakalli séra J. A. Sigurðssonar | 12 85 |
| Frelsis- og Fríkirkjusöfn | 11 00 |
| Garðar-söfn | 5 50 |
| Víkrsöfn | 8 10 |
| Fjallasöfn | 3 18 |
| Fyrsta lút. söfn. í Wpeg | 14 00 |
| prestakalli séra B. B. Jónssonar | 9 25 |
| Alls | $443 42 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Borgað Fr. Johnson fyrir ritstörf á kirkjuþingi 1897 | $ 10 00 |
| " séra J. A. Sigurðssyni, ritföng | 50 |
| " séra N. S. Þorlákssyni, missíón | 20 00 |
| " séra J. A. Sigurðssyni, missíón | 60 00 |
| " séra J Bjarnasyni, ,,Missionary Register" | 50 |
| " The Lögberg Ptg. & Publ. Co., auglýsing | 60 |
| " sama, prentun | 1 50 |
| " R. Marteinssyni, missíón | 25 00 |
| Í sjóði | 325 32 |
| Alls | $443 42 |

Féhirðir skýrði frá, að samkvæmt því, sem fyrir var lagt á síðasta kirkjuþingi, hefði hann á síðastliðnum vetri skýrt söfnuðunum frá, hvað vonazt væri eftir að þeir hver um sig legði í félagssjóð í réttu hlutfalli eftir meðlimatölu, og hefði því yfir höfuð verið vel tekið.

*Missíónar-málið.*

Nefndin, sem í því hafði sett verið á 4. fundi, kom með svo látanda álit sitt:

Herra forseti!

Vér, sem kosnir vorum til að íhuga missíónar-málið, leyfum oss hérmeð, að ráða þinginu til einbeittrar starfsemi á þessu ári í því máli, og ráðum til, að eftirfylgjandi menn heimsœki hin prestlausu byggðarlög, nefnilega:

séra O.V. Gíslason: Þingvalla-nýlenduna, Keewatin og Qu'Appelle;

séra Jón Bjarnason: Selkirk og Nýja Ísland;

séra F. J. Bergmann: Roseau-nýlenduna,Minn., Fjalla-byggðina, N.-D., og Mouse River-nýlenduna;

séra B. B. Jónsson: Duluth, Minn., Minneapolis, Watertown, S.-Dak., og Utah (ef unnt er);

séra J. J. Clemens: Pipestone (Laufásbyggðina) í Man. og Brandon;

hr. R. Marteinsson: Grunnavatns-nýl., Man , Álftavatns-nýl., Selkirk og Red Deer-nýlenduna í Alberta.

Vér ráðum kirkjufélaginu til, að heimila forseta kirkjufél. að verja allt að $200 til að borga kostnað þann, er af þessu stafar; enn fremr; ef unnt er, að senda einhvern af prestum kirkjufél. út í Manitoba-vatns-, Grunnav.-, og Álftavatns-nýlendurnar næstkomanda vetr.

Eftir nokkrar umrœður var nefndarálitið samþykkt.

Samþykkt var og, að séra Oddi V. Gíslasyni væri úr sjóði kirkjufélagsins veittir $25.

Samþykkt enn fremr, að hr. Runólfi Marteinssyni skyldi til launa fyrir missíónar-starf hans auk ferðakostnaðar borgaðir $50 um mánuðinn, reiknað frá þeim tíma, er hann byrjaði síðastliðið vor, og þangað til hann að áliðnu sumri hættir því starfi. Ætlazt var til, að hr. R. M. veitti söfnuðum séra Jónasar A. Sigurðssonar í fjarvist hans nokkra þjónustu, og að kirkjufélagið teldi það verk eins og fyrir sig unnið.

*„Sameiningin“.*

Reikningar þess blaðs voru þá lagðir fram af hr. Jóni A. Blöndal, féhirði útgáfunefndarinnar. Og höfðu þeir áðr verið yfirskoðaðir af mönnum þeim, er til þess voru kjörnir (M. Pálssyni og Ó. G. Anderson). Samkvæmt þeirri skýrslu var blaðið í ofr-lítilli skuld (við prentfélag „Lögbergs“): $42.56. En í útistandandi skuldum var talið að blaðið ætti $1,548—eftir að þó 20% hafði verið dregið frá til að gjöra fyrir aföllum.

Féhirði þakkað fyrir starf hans og ánœgju lýst yfir fjárhagsástœðum blaðsins eins og þær voru nú orðnar. Ritstjóra einnig þakkað fyrir hans verk.

Útgáfunefnd „Sameiningarinnar“ var þá í einu hljóði endrkosin: séra Jón Bjarnason, séra Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, séra Björn B. Jónsson og séra Jónas A. Sigurðsson.

12. fundr, sama dag, kl. 2.10—7 e. m.

*Skólamálið*

var þá tekið fyrir. Álit hinnar standandi skólamálsnefndar var lesið upp og lagt fram, þannig hljóðanda:

Séra Jón Bjarnason,
forseti hins ev. lút. kirkjufél. Ísl. í Vestrh.

Háttvirti herra forseti!

Vér undirskrifaðir, þrír af þeim fimm mönnum, sem kosnir voru á síðasta ársþingi kirkjufélagsins sem stjórnarnefnd (Board of Directors) hins fyrirhugaða lærða skóla (Academy's) félagsins, leyfum oss að leggja fram eftirfylgjandi skýrslu yfir starf vort síðan á seinasta kirkjuþingi.

Vér höfðum fund hinn 30. Júní 1897 í Minneota, strax eftir síðasta kirkjuþing, til að ráðstafa ýmsum sökum skólasjóðsins, og svo höfðum

vér fund á Garðar og í Park River í N.-Dakota 19., 20. og 22. Nòvember f. á. til að ráðstafa ýmsum málum sjòðsins og rœða um skòlastofnanina.

Oss var falið á síðasta kirkjuþingi, sem haldið var í Minneota, Minn., að löggilda oss sem stjòrnarnefnd skòlans undir lögum Norðr-Dakota-ríkis; og ef Park River-búar hækkuðu tilboð sitt úr $4,000 upp í $6,000 fyrir lok síðasta árs, tryggði loforð sín um styrk og lengdi tímann, sem skòlahúsið yrði fullgjört, var oss falið, að ákveða skòlanum heimili í Park River, með því skilyrði þò, að annar bœr, sem hentuglega væri settr, byði ekki meira styrk eða betri kjör.

Út af þessu leyfum vér oss að skýra yðr frá,að vér allir fimm skòlanefndarmennirnir áttum fund með oss hinn 29. og 30. Desember síðastl.; en með því að Park River-búar höfðu þá ekki uppfyllt skilmála þá, sem settir voru á síðasta kirkjuþingi og engin tilboð um styrk til skòlans komu frá neinum öðrum bœ eða bœjum, ályktuðum vér, að ákveða ekki skòlanum heimili neinsstaðar, heldr fresta því máli til þessa kirkjuþings. Af þessu leiddi eðlilega, að vér löggiltum ekki stjòrnarnefnd skòlans undir lögum Norðr-Dakota-ríkis.

Viðvíkjanda því, að ákveða skòlanum heimili, leyfum vér oss að gjöra eftirfylgjandi tillögu, sem vér ráðum kirkjuþinginu til að samþykkja:

‚Með því að Winnipeg-bœr er að ýmsu leyti betr settr en aðrir bœir í Manitoba og nærliggjandi ríkjum sem heimili fyrir hinn fyrirhugaða skòla (Academy) kirkjufélagsins, þá er stjòrnarnefnd skòlans hérmeð falið, að ákveða honum heimili í Winnipeg fyrir lok þessa árs (1898), með því skilyrði, að íbúar Winnipeg-bœjar, Manitoba-fylkis og annarra Canada-fylkja (aðrir en einstakir Íslendingar) veiti skòlanum fjárstyrk, er nemi að minnsta kosti $6,000, og leggi til hœfilegan grunn undir skòlabygginguna (ekki minni en um 2 ekrur) innan takmarka Winnipeg-bœjar. En ef nefnd hlunnindi fást ekki fyrir skòlann í Winnipeg innan þess tíma, sem tiltekinn er hér að ofan, þá má stjòrnarnefndin ákveða skòlanum heimili í Park River eða einhverjum öðrum bœ í N.-Dakota eða Manitoba, er gefr að minnsta kosti eins gòð kjör og ákveðin eru í samþykkt síðasta kirkjuþings viðvíkjandi stofnan skòlans í Park River. Ef stjòrnarnefndin ákveðr skòlanum heimili samkvæmt því, sem að ofan er ákveðið, skal hún löggilda skòlann undir lögum þess ríkis eða fylkis, sem honum er ákveðið heimili í.‘

Vér leggjum fram á þessu kirkjuþingi reikninga skòlasjòðsins, sem sýna, að sjòðrinn nemr nú í allt $5,346.21,og hefir sjòðrinn þannig aukizt um $501.11 síðan á seinasta þingi.

Að ending skulum vér taka það fram, að einn maðr í stjòrnarnefnd skòlans, séra Jònas A. Sigurðsson, lagði á stað til Íslands fyrir tæpum mánuði síðan, og ritar því ekki undir þessa skýrslu. Annar nefndarmaðr, hr. E. H. Bergmann, mœtti ekki heldr á þessum síðasta fundi vorum, og skrifar því ekki undir skýrsluna.

Winnipeg, Man, 27. Júní 1898.

Sigtr. Jònasson, Fr. Friðriksson,

Þessu nefndaráliti er eg samþykkr nema að því leyti, að eg vil, að skilyrðið fyrir því, að stjórnarnefnd skólans hafi heimild til að ákveða skólanum stað í Winnipeg sé það, að íbúar Winnipegbœjar, Manitobafylkis og annarra Canada-fylkja, aðrir en Íslendingar, veiti skólanum fjárstyrk, er nemi að minnsta kosti $10,000, og leggi til hœfilegan grunn undir skólabygginguna innan takmarka Winnipeg-bœjar.

Fr. J. Bergmann.

Eftir talsverðar umrœður var gengið til atkvæða um tillögu nefndarinnar. Tillaga minna hlutans var fyrst borin upp. Nafnakall var við haft og sögðu *já* : séra Friðrik J. Bergmann, séra N. Steingrímr Þorláksson, séra Björn B. Jónsson, Ó. G. Anderson, Árni Sigvaldason, Einar A. Melsteð, G. B. Olgeirsson, Sigrgeir Björnsson, Ólafr Ólafsson, Friðb. F. Björnsson, Haraldr Pétrsson, Jakob Benediktsson, Guðmundr Eiríksson, Tryggvi Ingjaldsson, Einar Scheving. En *nei* sögðu: séra Oddr V. Gíslason, séra Jón J. Clemens, Jón A. Blöndal, Brandr J. Brandsson, Jón K. Ólafsson, Þorgils Halldórsson, Guðjón Guðvaldsson, Jón Þórðarson, Gunnar Jóhannsson, Árni Eggertsson, Stefán Gunnarsson, Sigtryggr Jónasson, Magnús Pálsson, Skafti Arason, Björn Jónsson, Jón Björnsson, Friðbjörn S. Friðriksson, Friðjón Friðriksson, Gunnl. E. Gunnlaugsson, Gísli Egilsson, Guðjón Ingimundsson, Bjarni Marteinsson.

Tillagan var þannig fallin með 15 atkvæðum á móti 22.

Tillaga meira hlutans var þá borin upp til atkvæða. Og var hún samþykkt með 22 atkvæðum gegn 11.

Jafnaðarreikningr skólasjóðs, sem nefndin lagði fram staðfestan af yfirskoðunarmönnum, var svo hljóðandi :

| TEKJUR : | | ÚTGJÖLD: | |
|---|---|---|---|
| Eignir 29. Júní 1897 | $5,041.55 | Lán gegn handveði | $2,007.04 |
| Gjafir á árinu | 106.25 | Lán gegn fasteignarveði | 952.35 |
| Greiddir vextir | 282.32 | Peningar í bönkum | 2,116.54 |
| Ógreiddir vextir | 96.84 | Óborg. vextir og pen. í sjóði. | 261.75 |
| | | Útgjöld og áðr taldir vextir | 180.75 |
| | | Mismunur frá fyrra ári | 8.53 |
| Alls | $5,526.96 | Alls | $5,526.96 |

Eignir skólasjóðs 30. Júní 1898:

| | |
|---|---|
| Nótur | $2,007.04 |
| „Mortgages“ | 952.35 |
| Peningar á bönkum | 2,116.54 |
| Peningar hjá féhirði | 163.74 |
| Peningar hjá „financial agent“ | 1.17 |
| Áfallnir vextir (óborgaðir) | 96.84 |
| Alls | $5,337.68 |
| Ógjörð grein fyrir | 8.53 |
| Samtals | $5,346.21 |

Yfirskoðunarmenn lýstu skriflega yfir því, að allar tryggingar fyrir útlánum úr skólasjóði væri að þeirra áliti góðar og það fé því í alla staði óhult.

Féhirði skólanefndarinnar, hr. Friðjóni Friðrikssyni, var þakkað fyrir starf hans.

Samþykkt var, að skólanefndinni væri falið, að semja um bókfœrslu skólasjóðsins næsta ár fyrir þóknan.

---

*Næsta kirkjuþing* var ákveðið að halda skyldi í kirkju Hallson-safnaðar samkvæmt tilboði þaðan. Annað tilboð kom frá Garðar-söfnuði.

Svo látandi tillaga til *yfirlýsingar um bindindismálið* var borin upp af hr. Jóni A. Blöndal og samþykkt:

„Vér látum hér með í ljósi ánœgju vora og gleði yfir því, að bindindismálið er nú komið á það stig hér í Canada,að búast má við,að innan skamms verði almenningi ríkisins gefinn kostr á, að láta í ljósi með atkvæðum sínum, hvort þeir sé með því eða mót, að með lögum verði bannaðr allr innflutningr, tilbúningr og sala áfengra drykkja innan ríkisins.

Vér erum þeirrar skoðunar, að slík lög, ef þeim er rétt og samvizkusamlega framfylgt, geti orðið til ómetanlegrar blessunar fyrir land og lýð.

Vér óskum og vonum, að sá tími fari í hönd, að fulltrúar þjóðanna verði ekki neyddir til þess að leyfa fyrir endrgjald, að selja megi til neyzlu þá vöru, er hefir svo mikla spilling í för með sér, sem af almenningi er viðrkennt að áfengir drykkir hafi.“

*Tekjur kirkjufélagsins* fyrir þetta ár áætlaðar $150 eins og í fyrra.

Samþykkt var, að fylgja þeirri aðferð, að leita samskota til missíónarsjóðs við guðsþjónustur safnaðanna á reformazíónardeginum 31. Okt. eða einhvern næstu sunnudaga:

Í *skólanefndina* voru kosnir: Friðjón Friðriksson, Siggtryggr Jónasson, séra Björn B. Jónsson, séra Jónas A. Sigurðsson og Magnús Pálsson.

Til yfirskoðunarmanna fyrir næsta ár voru kosnir: Árni Eggertsson og Jón Þórðarson.

Kirkjuþingið þakkaði Fyrsta lút. söfnuði í Winnipeg fyrir góðar viðtökur og forseta fyrir hans starf á þinginu.

Að ending var sungið sálmsvers, séra N. Steingrímr Þorláksson flutti bœn og forseti sagði kirkjuþinginu slitið.

## *ÚR ÞINGSETNINGARRŒÐUNNI*
(út af Jòh. 17, 13—23).

[Fyrst var af rœðumanni minnt á, að dagr sá, er kirkjuþingið kom saman, 24. Júní, væri Jònsmessan, nafndagr Jòhannesar skírara og um leið fœðingardagr hans—eftir því, sem kristnum lýð til forna hefði talizt til samkvæmt nýja testamentinu. Hjá forfeðrum vorum langt aftr á öldum hefði dagr þessi verið stór-merkr helgidagr. En nú væri sú frægð dagsins hjá oss og víða í kristninni fallin í gleymsku og dá, og ekkert lengr eftir af hinu forna kirkjulega sérkenni þessa dags hjá oss annað en nafnið tómt í almanakinu og það í svo úreltri mynd, að margir Íslendingar hefði að líkindum enga hugmynd um, að það benti til Jóhannesar. Og í rauninni hafi dagrinn sem kirkjulegr merkisdagr mátt hverfa. Það væri í samrœmi við eitt aðaleinkenni á persónu þeirri, er dagrinn hefði verið heitinn eftir, þeirri fögru lífseinkunn, er þessi orð hans benda til: „Hann (frelsarinn) á að vaxa, en eg (fyrirrennarinn) að minnka". Hér væri að rœða um auðmýkt Jóhannesar, sem þá meðal annars hefði lýst sér í því, að hann, þegar hann forðum var krafinn til sagna um það, hver hann væri, hafi að eins sagzt vera rödd, guðs rödd, hrópandi í eyðimörk. Hann hafi ekki viljað, að sín persóna kœmi að neinu leyti til greina fyrir mönnum,—að eins hinn guðlegi boðskapr, sem hann flutti,—ekkert annað. Og þetta ætti að vera þeim öllum, sem köllun hefði fengið til að vinna að kristindómsmálum, til bendingar um, að þessa fögru lífseinkunn Jóhannesar skírara yrði þeir að tileinka sér, ef verkið þeirra ætti að geta heppnazt.—Síðan var talað um lærisveina Jesú til forna, hinn makalausa árangr af kristniboðsstarfi þeirra,og sýnt fram á, hvernig þeir til þess að byrja með hefði orðið að læra að verða eins og að engu, hverfa á bak við frelsarann, helgast í sannleika hans orðs—í samhljóðan við bœn Jesú fyrir þeim í textanum. Og svo var áframhald rœðunnar þetta:]

En auðvitað gildir þessi bœn Jesú ekki að eins þessa fyrstu lærisveina hans, heldr líka alla kristna menn á öllum tímum, og þá að sjálfsögðu einnig oss, „fáa, fátœka, smáa" Íslendinga, sem erum að eiga við kristilegt félagsstarf og að byggja upp kirkju Krists yfir fólk vort í dreifingunni hér í landinu. Því frelsarinn segir sjálfr í bœninni: „En eg bið ekki einungis fyrir þessum, heldr og fyrir þeim, sem trúa munu á mig fyrir þeirra orð." Líka oss hafði hann í huganum á þeirri hátíðlegu, háalvarlegu stund. Hann biðr þess, að líka vér allir fáum orðið eitt,—að vor litla þjóð fái orðið eitt með hinum þjóðunum öllum stórum og smáum fyrir kraft kristindómsorðsins, og hinir ýmsu partar þjóðar vorrar eins og allra annarra þjóða, hinir einstöku menn, hin einstöku heimili, hinar einstöku

sveitir, fái sameinazt á sama hátt. Hann biðr þess, að hin kristilega vinna vor, sameiningarstarfið vort, blessist. Og að því leyti, sem það hefir að undanförnu blessazt, er það vitanlega eingöngu honum að þakka,—honum, konungi kirkjunnar, sem gefið hefir oss hið heilaga frelsisorð,—honum, hinum kærleiksríka frelsara vorum, sem bað svo dýrðlega fyrir sínum lærisveinahópi áðr en hann gekk út í píslir friðþægingarinnar og biðr síðan jafnt og stöðugt í himninum fyrir kristni sinni hér á jörðinni. En að því leyti, sem kirkjustarf vort ekki hefir heppnazt, eða blessazt, þá er það eingöngu oss að kenna, oss, sem tekið höfum það hlutverk að oss, að bera kristindómsmálefnið fram fyrir almenning. Eg segi ekki með því, að það hafi verið eða sé á voru valdi, að fá allt vort fólk til þess að beygja sig fyrir kristindóminum, safnast trúað og tilbiðjanda inn í kirkju Krists og prýða svo það andlega heimili með sannkristilegu lífi. Slíkt var ekki á valdi postulanna til forna, þótt fullir væri af heilögum anda. Þeir, sem kristindómsboðskaprinn útgengr til, geta auðvitað beitt frjálsræði sínu þannig, að þeir ýmist láti hann sem vind sér um eyru þjóta, sinni honum ekki að neinu, ellegar rísi upp til mótspyrnu gegn honum. Slíkt kom eins og alkunnugt er fram, þá er Jesús í eigin persónu vann sitt guðs ríkis starf og postularnir síðan eftir að hann var líkamlega frá þeim farinn. En starfið blessaðist þó dýrðlega þrátt fyrir það. Þess vegna væri ekki heldr rétt að segja, að vort kirkjustarf hafi misheppnazt eða vanblessazt, þó að það vitanlega hafi orðið fyrir all-harðri mótspyrnu, eða þó að hinn kirkjulegi flokkr vor sé enn, ef til vill, í minna hluta. En að því leyti, sem kristindómrinn ekki kemr fram sem upplyftanda afl í lífi safnaðarlimanna og félagslífi kirkju vorrar yfir höfuð, að því leyti má réttilega tala um vanblessan yfir verki voru. Og þó að sannarlega megi eigi all-fátt tilfœra, sem bendir ótvíræðlega á drottinlega blessan yfir hinu kirkjulega starfi, er hjá oss hefir verið unnið, nokkurn vöxt og viðgang bæði hið innra og út á við, þá efast eg ekki eitt augnablik um það, að þér allir, brœðr góðir, játið hátíðlega, að kristindómslíf safnaða vorra er mjög ófullkomið, sjúkt og stór-gallað, og það með, að það hefði, þrátt fyrir allan mótblástr frá andstœðingum

kirkjunnar og aðrar erviðar ástœður, átt að vera orðið og getað verið orðið miklu miklu fullkomnara.

Það, sem að er hjá oss, kemr vanalega býsna skýrt í ljós á kirkjuþingum vorum. Og það mjög eðlilega, þar sem fulltrúar leikmannalýðsins í söfnuðunum ásamt prestum kirkjufélagsins eru þar saman komnir til sameiginlegrar félagsvinnu. Styrkrinn kirkjulegi, að því leyti,sem hann er til í söfnuðum vorum, kemr þar allr fram, og veikleikinn allr þá eigi síðr. Sumir söfnuðir senda engan erindsreka á kirkjuþing, og það jafnvel svo árum skiftir. En líka í því birtist ástand kirkjufélagsins. Kirkjulífið hjá oss yfir höfuð er vafalaust hvorki betra né verra en birtist á kirkjuþingunum. Enginn neitar því víst, að þar hafi margt þarft og fagrt og vekjanda orð verið talað, heil-mikil löngun skinið þar einatt út úr andlitum og orðum manna, bæði leikmanna og presta, til þess að koma miklu góðu til leiðar, og margar vitrlegar ályktanir teknar félagslífinu til framfara, kirkju Krists vor á meðal til uppbyggingar. En árangrinn hefir lang-sjaldnast verið eftir því. Ekki nema undr lítið eftir á verið gjört af því, sem vér höfum ályktað að gjört skyldi. Og svo hefir jafnaðarlega með gildum ástœðum verið yfir því að kvarta, að kirkjuþingssetan hafi orðið ákaflega þreytandi, rekstr mála gengið seint og stirðlega, of mikið kapp í umrœðum út af smáatriðum, lítið af lempni, þolinmœði, bróðurhug, og í einu orði raunalega mikill skortr á kristilegum félagsanda. Kirkjuþing vor stundum eins ókyrrlát eins og róstusamir stjórnmálafundir. Ef það er rétt, sem eg hefi fyrir satt að sé, að kirkjuþingin sýni ástand kirkjufélags vors yfir höfuð, þá er stór-mikið að. Og úr því er heilög skylda vor allra að bœta eftir fremsta megni með hjálp þeirri, sem öllum lærisveinum Jesú Krists stendr sí og æ til boða ofan að. Og um það ættum vér fyrst af öllu að hugsa biðjandi á þessu kirkjuþingi. Það, sem oss ríðr mest á af öllu, til þess að störf vor fyrir málefni guðs ríkis blessist bæði á kirkjuþingi og utan þings, er alveg vafalaust það, sem frelsarinn biðr um í textanum lærisveinunum til handa, er hann segir: „Helga þú þá í þínum sannleika; þitt orð er sannleikr“.

Vér, sem stöndum fyrir hinni kirkjulegu vinnu, þurfum um fram allt að biðja drottin samkvæmt leiðbeining þessarar

bœnar að helga oss í sannleikanum, sannleik þess orðs, sem vér trúum og játum að flytji syndugum mönnum sáluhjálpina, sannleik þess orðs, sem vér höldum á lofti í kirkjunni og viljum útbreiða meðal almennings. En það, að vér helgumst í sannleikanum, það þýðir, eins og þegar er á drepið, auðmýkt, sannkristilega auðmýkt, svo mikla auðmýkt, að persóna sjálfra vor, hinn náttúrlegi maðr, vor, þoki algjörlega fyrir persónu frelsarans Jesú Krists. „Svo að allir sé eitt",—segir Jesús í bœninni, „eins og þú, faðir, ert í mér og eg í þér, svo að þeir og sé eitt í okkr"; — —„eg í þeim og þú í mér, svo að þeir sé fullkomlega sameinaðir." Vér þurfum allir að biðja eins og beðið er í haustsálminum einum í sálmabókinni:

„Tak allt það, drottinn minn, frá mér,
sem mér kann snúa burt frá þér,
svo okkr enginn skilji;
en gef mér aftr, guð minn, það,
er getr mér þér snúið að;
gef vilja þinn eg vilji."

Allt þetta liggr í bœninni frelsarans fyrir oss öllum hans lærisveinum: „Helga þú þá í þínum sannleika."

Dagrinn í dag er stórmerkr dagr í sögu þjóðar vorrar, því á Jónsmessu, 24. Júní, árið 1000 var kristni lögtekin á Íslandi. Ef kristindómrinn, eins og vér víst hiklaust allir játum, er bezta gjöfin, sem mannkynið hefir fengið, þá hlýtr líka þessi dagr að teljast merkasti dagrinn í sögu þjóðar vorrar. Það er að vísu af sumum í nútíðinni talað lítt virðulega um þessa kristnitöku Íslendinga til forna; ekki laust við, að skopazt sé að því, að kristnin var innleidd með samþykkt á alþingi eins og borgaralegt lagaboð. Og auðvitað var það í all-miklu ósamrœmi við trúarhugsjón þá, sem ræðr í nýja testamentinu. En eins og það er víst, að kristnin jafnvel í sínum ófullkomnu þátíðarumbúðum varð til ómetanlegrar blessunar á ættjörðu vorri, eins víst er það, að forfeðr vorir undir eins þá við kristnitökuna skildu merkilega vel þýðing þessara bœnarorða Jesú: „Helga þú þá í þínum sannleika",—alveg vafalaust miklu betr en margir nútíðar-Íslendingar með kristnu nafni. — Áðr en kristnin var lögleidd var allt í uppnámi á alþingi út af því, að hin nýja trú var sýnilega að ryðja sér til rúms í landinu. Því

stór hluti fólksins vildi halda fast við hinn fqrna heiðna sið. Og þá tóku heiðingjarnir það ráð, að blóta tveim mönnum úr hverjum landsfjórðungi—en vel að merkja illvirkjum, er taldir voru réttdræpir—og heita á goðin, til þess þau ekki léti kristni ganga yfir landið. En í annan stað höfðu kristnir menn fund með sér, í því skyni, að styðja framgang síns máls. Og þar varð það að ráði og samþykkt, að valdir skyldi úr hópi þeirra jafn-margir menn og heiðni flokkrinn hafði kosið sér, einnig til nokkurskonar fórnargjörðar, hinu heilaga máli sínu—kristindóminum—til eflingar. Tveir menn úr hverjum fjórðungi landsins voru tilnefndir,—og um leið gáfu þeir sig af eigin frjálsum vilja fram,—hinum sanna, lifanda guði, sem í Jesú Kristi er opinberaðr, til fórnar. En það voru einhverjir beztu og ágætustu mennirnir, sem sá flokkr—og þá um leið þjóðin í heild sinni—átti þá til í eigu sinni. Og fórnargjörðin, sem þar var um að rœða, var fólgin í því, að þessir vönduðustu menn skyldi lifa því betr og syndvarlegar en áðr, í fyllsta skilningi—eftir því, sem menn þá báru skyn á—helga líf sitt guði. Slíka fórn kölluðu þeir sigrgjöf við drottin vorn Jesúm Krist, því með þessu móti töldu þeir sér og sínu málefni sigrinn vísan, eins og líka brátt reyndist. Þetta ráð og þessi frjálsa ályktan var í fögru samrœmi við bœnina frelsarans fyrir lærisveinum sínum í texta vorum: „Helga þú þá í þínum sannleika“,—talandi vottr þess, hve merkilega ljóst það stóð fyrir forfeðrum vorum undir eins þá, hve makalausa þýðing það hefir á öllum tímum fyrir framgang kristninnar, hve ómissanda það er til þess að sem flestir og á sínum tíma allir geti orðið eitt í kristilegum skilningi, að þeir, sem standa fyrir kirkjumálunum, birtist í allri sinni framkomu sem guði helgaðir menn, láti líf sitt verða líf í sannleikanum, leyfi frelsaranum að hafa sig fyllilega á valdi sínu og skína út úr persónu sinni, hafi hug til þess að verða sjálfir litlir, svo litlir, að þeir svo að segja hverfi á bak við drottin Jesúm.

Vinir mínir, höfum þetta allir í huganum nú um leið og vér tökum til starfa fyrir hið góða málefni á þessu kirkjuþingi. Um leið og vér hugsum um hið göfuga markmið kirkjufélags vors—það að allir vorrar þjóðar menn fái orðið eitt í trúnni á mannkynsfrelsarann Jesúm—, þá hugsum um þessi bœnarorð

þeim mönnum viðvíkjandi, sem bera áttu kristindóminn út um heiminn: „Helga þá í þínum sannleika". Og hugsum um þessi orð biðjandi í dýpstu alvöru hjartans. Biðjum guð allir nú að helga oss í hans sannleik. Og látum alvöru þeirrar bœnar koma fram í því, að vér—ekki nokkrir útvaldir, ekki eins og tveir menn úr hverjum landsfjórðungi, heldr allir—undantekningarlaust allir leggjum sjálfa oss fram eins og fórn, lifandi, helga, guði þóknanlega, framseljum oss, hver út af fyrir sig og allir í einni heild, undir hinn frelsanda og helganda vilja drottins vors Jesú Krists.

## Missíónarferðir.

Eftir stud. theol. Runólf Marteinsson.

Laugardaginn 4. Júní lagði eg á stað til Roseau-nýlendunnar í Minnesota. Á leiðinni stóð eg við í Pembina og hafði guðsþjónustu þar á sunnudaginn. Því miðr var stór-rigning allan daginn, svo fáir gátu komið, enda varð ekki af guðsþjónustu í neinni annarri kirkju í bœnum. Pembina-menn sýndu mér mjög hlýtt og kristilegt viðmót. Næsta dag fór eg með Great Northern-lestinni frá St. Vincent til Stephen, og þaðan með pósti til Roseau-bœjar, en þaðan fékk eg keyrslu út í íslenzku byggðina. Voru þá liðnir fimm dagar frá því eg fór á stað frá Winnipeg. Um byggðina fór eg því sem næst alla og heimsótti meira hluta af búendum þar. Var mér allsstaðar vel tekið, og gjörðu margir sér far um, að gjöra mér dvölina sem skemmtilegasta. Kristindómsvinir eru þar margir, og margir þeir, er sakna mjög prestsþjónustu þeirrar, er þeir nutu í Dakota-byggðinni áðr en þeir mynduðu þessa nýlendu sína. Landar una þar vel hinum ytra hag sínum, en mjög mikil nauðsyn er þar á prédikan guðs orðs, stofnan sunnudagsskóla og annarri uppfrœðslu ungmennanna. Guðsþjónusta var haldin þar sunnudaginn, sem eg stóð við, í skólahúsi sem næst miðbiki byggðarinnar. Var þar meiri hluti Íslendinga úr byggðinni saman kominn og sýndist fólk taka ánœgjulegan þátt í guðsþjónustunni. Á leið minni tilbaka kom eg við í bœnum Hallock og hitti þar Guðmund gullsmið Guðmundsson og konu hans—og

veittu þau mér sérlega hlýjar viðtökur. Þau eru ein Íslendinga í þeim bœ.

Nokkru eftir kirkjuþing, þriðjudaginn 7. Júlí, fór eg í annað sinn út í Grunnavatns- og Álftavatns-nýlendu, og hafði eg í þetta skifti meiri viðdvöl í hinni fyrr nefndu en þegar eg kom þangað út í vor. Byggðin þar er falleg, en sá stóri galli er á rétt sem stendr, að Grunnavatn liggr á bökkum og hylr það, sem áðr var blómlegt engi. Menn vona þó sífellt, að annaðhvort verði vatnið rist fram eða það lækki í því af náttúrunnar völdum.—Guðsþjónustur voru haldnar í skólahúsunum beggja megin vatnsins, og var guðsþjónusta sú, er haldin var á vestrströnd vatnsins sérstaklega vel sótt. Á austrströnd vatnsins hafa oft verið haldnar húslestrasamkomur, þannig, að menn hafa komið saman til skiftis hver hjá öðrum, og er þetta mjög fallegt og uppbyggilegt. Í sambandi við þessa lestra voru börnin einnig uppfrœdd og þeim kennd sálmalög. Þetta geta menn auðvitað víða í prestlausum byggðum. Á vestrströnd vatnsins voru þeir svo sérstaklega heppnir, að hafa alþýðuskólakennara, ungan námsmann, mjög einlæglega kristinn, Árna Anderson frá Winnipeg, sem bauð þeim, að stofna sunnudagsskóla hjá þeim. Slík tœkifœri gefast ekki ætíð, og ætti byggðarmenn að vera reiðubúnir að leggja mikið á sig til að nota þvílíka viðleitni. Á eftir guðsþjónustu í þeirri byggð var eins og víðar samtalsfundr viðvíkjandi safnaðarmyndan. Þó raddir kœmi þar fram í þá átt, að œskilegt væri, að kristilegr félagsskapr væri myndaðr, voru þó flestir á því, að ekki væri að svo stöddu ástœður til að mynda söfnuð. En velvilja og þakklæti til kirkjufélagsins fyrir að senda trúboða þangað létu menn í ljósi bæði í orði og með myndarlegum fjárframlögum.—Í Álftavatns-nýlendunni hafði eg guðsþjónustu á sunnudaginn, 17. Júlí. Veðr var hið yndislegasta, sem hugsazt gat, enda var samkomuhúsið troðfullt og þó ýmsir úti. Guðsþjónustan var mjög ánœgjuleg. Vér sungum drottni vorum til dýrðar með fjöri og hita, þó sönglistarmennirnir hefði, ef til vill, fundið eitthvað að söngnum, frá íþróttarlegu sjónarmiði. Sunnudagsskóli var á eftir guðsþjónustunni, og hafði hann verið stofnaðr eftir að eg kom þangað í fyrra skifti. Á honum voru 34 börn þann dag, og var þeim skift í þrjá flokka. Kennararnir eru : Jón Sigurðsson, Páll Reykdal og Snjólfr Sigurðsson. Börn-

unum þótti mjög vænt um sunnudagsskólann, og gekk hann yfir höfuð heldr vel. Á eftir kennslu sungu þau eina þrjá eða fjóra sálma, og kynnast þau brátt með þessu móti talsverðu af sálmum og lögum.

Miðvikudaginn, 20. Júlí hóf eg ferð mína til Red Deer-nýlendunnar í Alberta. Eftir hér um bil þrjú dœgr var eg kominn til Calgary. Þar beið eg í 5 klukkutíma og hélt svo áfram eftir Edmonton-brautinni 75 mílur norðr til Innisfail; og var eg þá búinn að fara hér um bil 920 mílur frá Winnipeg. Eftir litla dvöl í Innisfail fékk eg keyrslu með skozkum manni út til Íslendinganna. Hjá þeim dvaldi eg svo í nær tvær vikur og hafði alls 4 guðsþjónustur, er allar voru mjög vel sóttar eftir því, sem ástœður leyfðu. Hin fyrsta og hin síðasta voru í suðrhluta byggðarinnar nálægt Tindastóls-pósthúsi, en af hinum var önnur í norðausturhluta byggðarinnar í prívathúsi, en hin, á sunnud. 31. Júlí, í húsi Hólaskóla í norðvestrhluta byggðarinnar, og var það skólahús fullt og þó nokkrir úti. Yfir höfuð létu menn í ljósi mjög mikla ánœgju yfir því, að fá þannig tœkifœri til að koma saman til að dýrka guð og heyra á ný guðs orð prédikað á sínu máli og samkvæmt vorri lútersku trúarjátning eftir öll þau 9—10 ár, sem þeir hafa farið á mis við allt þesskonar. Mjög einlægir og áhugamiklir kristindómsvinir eru þar ekki svo fáir, fullt eins margir og í öðrum prestlausum byggðum, er eg hefi farið um; og all-flestir myndi reiðubúnir að styrkja kristilegan félagsskap þar í byggðinni. Eg hafði gott tœkifœri til að kynnast fólki þar, því eg heimsótti hvern einasta búanda. Fólk er þar almennt glaðlynt og mjög kurteist, og var mér tekið sem bróður hvert sem eg fór og ekkert látið eftir liggja til að gjöra mér dvölina sem allra skemmtilegasta. Af félögum í byggðinni eru tvö: kvenfélag og lestrarfélag. Kvenfélagið hefir meðal annars haldið uppi sunnudagsskóla á vissum tímabilum, og hafa þær húsfrúrnar Sigrlaug Kristinnsson og Hólmfríðr Goodman veitt skólanum forstöðu. Slík viðleitni er þakkarverð, enda er mjög mikil þörf á kristindómsuppfrœðslu fyrir œskulýðinn í þeirri byggð eins og í öllum prestlausum byggðum. Skömmu áðr en eg fór úr byggðinni tók eg þátt í þjóðminningardagshaldi byggðarmanna, 2. Ágúst, samkvæmt ósk þeirra, með því að tala fyrir minni Vestr-Íslend-

inga. Seinasta kvöldið, sem eg var í byggðinni, hélt kvenfélagið gleðisamkomu. Var þar hópr manna saman kominn, og fékk eg þar tækifœri til að kveðja marga af vinum þeim, er eg hafði eignazt í þessari ferð. Mér var falið á hendr, að bera hlýja vinar- og þakklætiskveðju til kirkjufélags vors fyrir þann velvildarhug, sem það sýndi með því að senda mann til að prédika þar guðs orð. Á leið minni tilbaka dvaldi eg hjá Íslendingum í Calgary og hafði þar tvær guðsþjónustur, hina seinni í Presbyteríana-kirkjunni á sunnudaginn 7. Ágúst. Þar eru 9 fjölskylduhús íslenzk. Viðtökurnar þar voru einnig hinar allrabeztu. Yfir höfuð líðr löndum vorum í þessari vestlægu byggð vel, og þeir una sérlega vel hag sínum. — Að ending þakka eg svo öllum þeim fjölda manna, er hafa veitt mér liðsinni á þessum ferðum mínum og bið guð að launa það, sem eg get ekki.

---

## Gjafir til bókasafns kirkjufélagsins.

Í viðbót við það, sem kvittað er fyrir í „Sam." XII, 8, hefi eg í vetr og vor veitt bókagjöfum nokkrum viðtöku til bókasafns kirkjufélagsins, sem enn er samkvæmt ráðstöfun skólamálsnefndarinnar í mínum vörzlum. En bœkrnar eru þessar:

Frá hr. *Sigurði Kristjánssyni* í Reykjavík: Biblíuljóð séra Valdemars Briem, síðari partr; Smásögur Pétrs biskups Pétrssonar VIII, Íslendingasögur 16—19 í útgáfu gefanda (þ. e.: Reykdœla saga, Þorskfirðinga saga, Finnboga saga, Víga-Glúms saga); Vísnakver Páls Vídalíns (Kh. 1897);—allar þessar bœkr í kápu.

Frá séra *Þórhalli Bjarnarsyni*, lektor, í Reykjavík: Hið íslenzka garðyrkjufélag 1895, 1896, 1897 og 1898 og „Kirkjublaðið" frá upphafi til loka 6. árgangs í tveim exemplörum ásamt Kristilegum smáritum nr. 1—20, er með því hafa fylgt. Að nokkru leyti er áðr í „Sam." kvittað fyrir Kirkjublaðsgjöfina. Enn fremr Minningarrit 50 ára afmælis prestaskólans í Reykjavík, 2 exemplör.

Frá séra *Jóni Helgasyni*, prestaskólakennara: „Verði ljós!" frá upphafi til þessa.

Frá hr. *Kristjáni Matthieson*, p. t. Winnipeg: Morton's Hand Books of the Farm, London, Engl., 9 bindi (þ. e.: Chemistry

of the Farm, by R. Warington; Live Stock, by several writers; The Crops, by sev. wr.; The Soil, by J. Scott and J. C. Morton; Plant Life, by M. T. Masters; Equipment, by sev. wr., The Diary, by J. Long and J. C. Morton; Animal Life, by Brown; Labour, by Morton).

Frá hr. *Þorláki Þorlákssyni*, Wpeg,—eftir bróður hans *Sölva* heitinn *Þorláksson*: Bendz: De alm. d. Huspattedyrs Bygning og Liv, Kh. 1881; Vaupell: Planterigets Naturhistorie, Kh. 1885; Dalgas: Om Engvanding, Kh. 1877; Wolf: Huspattedyrenes rat. Fodring, Kh. 1875; Feilberg: Organisk Kemi, Odense 1875; Arrhenius: Jordbrukslärans hufvudgrunder, Norrköping 1882; Jörgensen: Kemiens Begyndelsesgrunde, Kh. 1885; Krogh: Praktisk Geometri, Bergen 1878; Grönlund: Islands Flora, Kh. 1881 (heft); Feilberg: Uorganisk Kemi, Kh. 1881; Galtung: Melke-Kvægets Sygdomme &c., Decorah, Ia, 1886; Bohr: Den gamle Historie, Kh. 1849; Berg: Læse- og Skriveövelser, Kh. 1867; — enn fremr Búfrœðisfyrirlestrar frá Hólaskóla 1885 ritaðir—2 hefti.

Í nafni kirkjufélagsins þakka eg fyrir þessar bókagjafir.

Winnipeg, í Júlí 1898.

JÓN BJARNASON.

---



,,SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.